3 Foreldrum þínum þéna' af dygd, það má gæfu veita, varast þeim að veita stygð, viljir þú gott barn heita.

4. Hugsa um það helzt og fremst, sem heiðurinn má næra, aldrei sá til æru kémst, sem ekkért gott vill læra.

5. Lærður er í lyndi glaður, lof ber hann hjá þjóðum, hinn er ei nema hálfur maður, sem hafnar siðum góðum.

6 Opt er sá í orðum nýtur, sem ydkar mentun kjæra; en þussinn heimskur þegja hlýtur, sem þrjótskast við að læra.

7. Vertu dyggur, trúr og tryggur, rángu geymdu þína, við engann styggur, né í orðum hriggur; athuga ræðu mína.

8. Litillátur, ljúfur, kátur, leik þér ei úr máta; varastu' spjátur, hæðni, hlátur, heimsk-ir menn svo láta.

9. Víst ávalt þeim vana haldt, vinna, lesa, ydja; umfram allt þú ætíð skalt, elska Gud og biðja.

## Visur um Lúthers Fræði.

Klár Lútheri Fræðin fróðir,
Finna kunna menn hér sett á íslenzkt mál,
Lesið, prísið lýðir góðir,

Lærid, heyrid, gjørid rétt og sedjid sál';
Ljúfra gjafa njótid, neytid,
Nádar tídir kannist vid,
Drottins lítillátir leitid,
Lotníng veitid,
Bidjid Gud um gódann frid.

2. Bædi medur munni' og penná.
Mest á sícsta aldar køldum tíma' og stad,
Menn vel svinnir kunna' ad kénna,
Koma heimi skyldug gjøld, ef forsmá'r þad;
Ordid dýrdar dádum prýdum,
Dyggar leggjum þackir mót,
Þeim, er sóma sædum frídum,
Sádu tídum,
Sprettur gott af gódri rót.

## Kristins manns athæfi.

**Sérhvad hefir sína tíd, svo er ad hlæa og gráta,
hóf er best ad hafa' á øllum máta.**

Finn eg þad í frædi hreinu, fródir menn sem tølúdu' um, ecki skédur allt í einu, ýmsum skiptir tímunum, á stødngu ecki stendur neinu, skundleg sorg og lucka blíd. **Sérhvad hefir sína tíd.** Eins fyrir mann' og menja reinu, margt kann á ad

bjáta. Hóf er best ad hafa á øllum máta.

2. Þess áttu med greind ad gæta, gángi þér vel med settann dag, þú kannt ødru máské mæta, á morgun, heldur enn var í dag, tvennt hefir til ad gledja' og græta, gudddóms maktar høndin þýd. S. h. s. t. Tjáir engum þess ad þræta, þad er audrádin gáta. H. e. b. a. h. á. ø. m.

3. Tregast ei þá erfidt veitir, einhvern tíma sorgin dvín, svo náttúran sjálf því breytir, sólin eptir regnid skín, Gud þeim øllum huggun heitir, hér sem lída forløg stríd. S. h. s. t. Til ørvæntíngar þig ei þreytir, þó þú megir gráta. H. e. b. a. h á. ø. m.

4. Vertú' hógvær þá vel þér gengur, svo verøldin þig blecki sízt, á augabragdi allt forgengur, audnu lán, þá hjólid snýst, velgengninnar støckur strengur, stundum minnst þá varir lýd. S. h. s. t. Hindra jafnàn horskur drengur, holdid sig ad státa. H. e. b. a. h. á. ø. m.

5. Gudi' er best ad trúa, treysta og taka því vel ad høndum ber, vér skulum ecki frekt á freista, ad fylgja því, sem holdid lér, gudhrædslunnar nærir neista, nádin

Drottins gædsku þýd. Sérhvad hefir sína tíd. Sá oss hefir af løstum leysta, hann leidi hriggda og káta. Hóf er best ad hafa' á øllum máta.

## Varhygd.

Audtrúa þú aldrei sért,
Aldrei tala, um hug þinn þvert;
Pad má kalla hygginds hátt,
Ad heyra margt, en skrafa fátt,
Tak þitt æ í tíma rád,
Tøkst, þó ei sé lundin brád;
Vin þinn skaltú velja þér.
Sem vitur og þar med tryggur er.

## Of og van.

Eitt er vid ofi hætt, ef augun líta gullbaug,
Ef høndin og hugarlund, horfa uppá sitt vald.
Hittist varla hóf rétt, þá hlaupid er í gum=kaup,
Séldur þess galid hold, ad glisi verdur opt slis.

2. Hitt er van opt hætt, ad una ei vid lítinn mun,
Egna til sín ógagn, og eyr gulli vyrda meir;

Slíßinn þykir lánlaus, þá líður hann sitt
egið stríð;
Ríkum opt í raun rak, ræktarleysið fátækt.

## Gott og Illt.

Gott er að geyma sitt, og géta prófað rétt hóf, vera ör og vel spar, og veita engum rángsleit, dælt þykir egið allt. öndvegis í sjálfs hönd, djarfur hver af skiptum skérf, skjóta finnur hugbót.

2. Illt er að sjá sult, á sínum, þá brauð dvín, letin víst ef út át, áður géfið forráð, líka þykir ljótt ok, að láta út fyrir dryckju=stát, endilega er leið lund, þá lángar einn á húsgáng.

3. Gott er að greina satt, og géfa þjóðum heil ráð, skamta niður skémt það, er skéður ecki spott með, hollustu hönd full, hærstri gengur dygð nærst, unna þeim sem á mann, eina prísa' eg þá grein.

4. Illt er á óheilt, að eggja þann, eg ráðlegg, lastanna er lygð verst, þó lýðir vyrði gaman=smíð; kjæsir gleði kránkt líf, kastar heillum bak=last. Dreifsið með sér dregur hlass, af dygðalausri ótrygð.

blind, sorgiu hjartad mæddi, holds náttúr-an heimsk og villt, hærilega með øllu spillt, í vondsku á ram æddi.

4. Snemma hefir bernskan bleckt. barn-dóms hug og sinni, ádur fyrri' enn féck þad þeckt, frá því skíra kynni, ad styggja Gud en safna sekt, sálu ad glata minni, var hid fyrsta verkid mitt; voldugt, Jesú! nafnid þitt, bót á bølinu vinni.

5. Lengi hefir þó leitast vid, líknar Fad-irinn mildi, ad leida mig frá lasta sid, svo lífid ødlast skyldi, med þolinmædi' og blídri bid, bjarga mér hann vildi; en eg sló því øllu' í vind, elskan holds og dárleg synd, heimsku hjartad fyldi.

6. Illa hefir mig holdid ginnt, og heims-ins lystin báda; Satan sló mér svika-mynt, sjest nú fátt til ráda, því er hjartad bleckt og blindt, þad bid eg Gud ad náda; þreji' eg vid þann hrigdar hag, harmar bædi nótt og dag, sálin þrautum þjáda.

7. Gud minn hefi' eg raunar reitt, til reidi' og heiptar brædi, hans milda nád og þolgéd þreitt, med þrjótsku' og synda ædi, grimma' yfir mig gløtun leidt, gamall og úng-ur bædi, samvitskan því særd er mín, sæti Jesú! gædskan þín, hana huggi' og grædi.

8. Um sídir þó eg setji mér, synda girnd ad deyda, holds náttúran þrjótsk og þver, þángad vill mig leida, sem tídast ádur tamdi' hún sér, á tøpunar veginn breida; viljinn ecki fær sig frí, fjøtrum daudans vefst eg í, sárlega mig þó meida.

9. Hverki ber eg til hug né dád, hjálp mér sjálfum veita, einkis nýt eru øll mín rád, þó ætti' eg þeirra' ad neyta; Jesús minn hefir nóga nád, nú vil eg þángad leita, hann mun aumur á mér sjá, efslaust fæ eg huggun þá, sem bølinu kann ad breyta.

10. Þó stærri vyrdist misgjørd mín, enn má eg sjálfur greina, mér er, Jesú! miskun þín, mildust, gædsku hreina, hjá þér aldrei hjálpin dvín, helst mun eg þá reyna, hér vid hressist hjartad mitt, heilagasta blódid þitt, lækníng minna meina.

11. Þó gengid hafi' eg glæpa stig, gálaus morgu sinni, elskad hold en hatad þig, af heimsku' og ofdyrfd minni, gódi Jesú! minnst' á mig, í miskunsemi þinni; særd og lemstrud sálin er, sýndu vægd og linkind mér, svo hjartad huggun finni.

12. Mig hefir djøfull sárum sært, og svikid af lífsins vegi, kránka sál úr klædum fært,

hún kann sér bjarga eigi, øllum krapti tapad og tært, tjón þad mest eg segi; ó þú sæti Samaritan! sjádu' aumur á þeirri smán, svo eg ei útaf deyi.

13. Gøtzi því eg þrádi þrátt, af þinni gædsku hendi, íllsku girndin eyddi brádt, aptur drafid sendi, hesi' eg lengi húngra mátt, heim nú loksins vendi, taktú vid mér útlegd úr, eins og fadirinn hjarta=trúr, í brjósti' um barn sitt kénndi.

14. Lækna fyri þinn dýrann deyd, Drottinn! sálu mína; fárleg synda fjøturin greid, svo finni' eg huggun þína, viltann saud á veginn leid, varginn lát ei pína, opna hug og hjartad mitt, svo heilagt nádar ljósid þitt, skjært megi þar skína.

15. Hjá Fødur þínum legg mér lid, Lausnarinn Jesú gódi! svo eg finni sátt og frid, sviptur þúngum módi, audmjúklega eg um þad bid, af ást og tára=flódi, fegdu: eg sé ordinn einn, af øllum syndum klár og hreinn, þveginn í þínu blódi.

16. Framdar syndir forlát mér, Fadirinn dýrdar sæli! fyrir dýrstann Jesú dreira hér, af døprum hug' eg mæli: kastadú ei frá augum þér, ómaklegum þræli! efldú líf med

ást og dád, svo aldrei mig frá þinni nád, freisting nockur fæli.

17. Á fyrirheitin heiløg þín, af hjartans grunni' eg treysti, frá djøfli, synd og sárri pín, Son þinn kjær mig leysti, med beiskri qvøl og blódi sín, barn sitt fallid reisti, Herra Gud! mér hjálpa þú, svo haldist eg vid rétta trú, þó frekt mín Satan freisti.

18. Heilags Anda hjálpin þýd, hug og sinni geymi, svo aldrei hédanaf illsku strid, yfir mig syndin sveimi, þá døpur nálgast daudans tíd, Drottinn sálu geymi; veiti mér þin líknin lid, leid í eilífann dýrdar frid, hédan úr þessum heimi.

19. Allar sképnur alla tíd, af øllum hug' og rómi, syngi þér lof, sem verøld er víd, voldugur Drottinn frómi! Jesú Kristi þøckin þýd, þar med føgur hljómi, heiløgum Anda' á himni' og lád, fyri huggun, styrk og líknar rád, aukist æra' og sómi!

## Vísa drótt-qvédin.

Hverr grædir hjartans qvída?
Hverr kjætti menn grætta?
Hverr sótt hindrar hætta?

Hverr snaudann vann dauda?
Jesús huggar, hrigd lógar.
Hann græddi sorgmædda.
Hann lífi heilsu géfur.
Hann snaudann vann dauda.

---

# Annar Flockur,

inniheldur

## Heilrædi og Uppvakningar

til

## kristilegs framferdis,

sýnir einnig hversu fallvalt og lítilsvert sé

## Heimsins ágæti og ysirlæti.

---

## Heilrædi.

Ungum er þad allra best, ad óttast Gud sinn Herra, þeim mun vitskan veitast mest, og virding ecki þverra.

2. Hafdú hverki hád né spott, hugsa' um rædu mína, elska Gud og gjördú gott, geym vel æru þína.

3 Foreldrum þínum þéna' af dygd, það má gæfu veita, varast þeim að veita stygð, viljir þú gott barn heita.

4. Hugsa um það helzt og fremst, sem heiðurinn má næra, aldrei sá til æru kémst, sem ekkért gott vill læra.

5. Lærður er í lyndi glaður, lof ber hann hjá þjóðum, hinn er ei nema hálfur maður, sem hafnar siðum góðum.

6 Opt er sá í orðum nýtur, sem ydkar mentun kjæra; en þussinn heimskur þegja hlýtur, sem þrjótskast við að læra.

7. Vertu dyggur, trúr og tryggur, rængu geymdu þína, við engann styggur, né í orðum hriggur; athuga ræðu mína.

8. Litillátur, ljúfur, kátur, leik þér ei úr máta; varastu' spjátur, hæðni, hlátur, heimsk-ir menn svo láta.

9. Vist ávalt þeim vana haldt, vinna, lesa, ydja; umfram allt þú ætíð skalt, elska Gud og biðja.

## Vísur um Lúthers Fræði.

Klár Lútheri Fræðin fróðir,
Finna kunna menn hér sett á íslenzkt mál,
Lesið, prísið lýðir góðir,

Drottins gædsku þýd. Sérhvad hefir sina tíd. Sá oss hefir af løstum leysta, hann leidi hriggda og káta. Hóf er best ad hafa á øllum máta.

## Varhygd.

Andtrúa þú aldrei sért,
Aldrei tala, um hug þinn þvert;
Pad má kalla hygginƨ hátt,
Ad heyra margt, en skrafa fátt,
Tak þitt æ i tíma rád,
Tókst, þó ei sé lundin brád;
Vin þinn skaltú velja þér.
Sem vitur og þar med tryggur er.

## Of og van.

Eitt er vid ofi hætt, ef augun líta gullbaug,
Ef høndin og hugarlund, horfa uppá sitt vald.
Hittist varla hóf rétt, þá hlaupid er í gum=kaup,
Séldur þess galid hold, ad glisi verdur opt slis.

2. Hitt er van opt hætt, ad una ei vid lítinn mun,
Egna til sín ógagn, og eyr gulli vyrda meir;

Slíkinn þykir lánlaus, þá líður hann sitt egið stríð;
Ríkum opt í raun rak, ræktarleysið fátækt.

## Gott og Illt.

Gott er að geyma sitt, og géta prófað rétt hóf, vera ör og vel spar, og veita engum rángsleit, dælt þykir egið allt, öndvegis í sjálfs hönd, djarfur hver af skiptum skér, skjóta finnur hugbót.

2. Illt er að sjá sult, á sínum, þá brauð dvín, ketin víst ef út át, áður gésið forráð, líka þykir ljótt ok, að láta út fyrir dryckju=stát, endilega er leið lund, þá lángar einn á húsgáng.

3. Gott er að greina satt, og géfa þjóðum heil ráð, skamta niður skémt það, er skéður ecki spott með, hollustu hönd full, hærstri gengur dygð nærst, unna þeim sem á mann, eina prísa' eg þá grein.

4. Illt er á óheilt, að eggja þann, eg ráðlegg, lastanna er lygð verst, þó lýðir virði gaman=smíð; kjæsir gleði kránkt líf, kastar heillum bak=last. Dreifsið með sér dregur hlass, af dygðalausri ótrygð.

6. Gott er ad geyma sátt, í Gudi hafa fögnud, þola bædi og þreja vel, þeckja sinn eginn fleck, heilsa og hönd frjáls, heitir bessta þad eg veit, lítillæti lund kát, líka er haldin dygd rík.

6. Illt er hatur óstillt, óttaleg mun hugar sótt, þúngt eg held ad þola rángt, þjáníng gjörir forsmán; vonda kalla eg vél synd, vamm kémur spott framm, plága mun og píst nóg, ad pínast fyrir verk sín.

## Tvö Vers *).

Lagid: Ödúngar Júda annars dags.

Gud nádi nú hvad gengur tregt, geysar rángtætid heldur frekt, á völtu hjóli heimurinn er, hnignandi fer, til falls med öllu flýtir sér.

2. Öll manna hugsan, hjarta og géd, hnígur til þess ad girnast féd, ýmisleg hegdan örg og ljót, en ei finnst bót, hefnd mun því koma hörd á mót.

---

*) Fyrra versid finnst í einu Exemplari þad 29da, en hid sídara þad 34da í Sálminum: Sék eg mig allann á Guds míns nád: en önnur sex Exempler útiláta þau.

## Vísa.

Fyrnist heimur, fáheyrt skédur.
Frelsarinn Jesús geymi' og vel!
Hans híngadkoma Guds børn gledur,
Þó græti þar til sorgar=el,
En þá verda' úti øll óvedur,
Í hendur Guds eg kristna fel.

## Hexametrum.

Holdid oftátt veit fyrirfram fátt hvad falla mun þægra,
Reidir sig þrátt á megn sitt og mátt eda mannordid frægra;
Ostyrilátt, þad ætlar sér hátt ad endíngu dægra;
Sá er vid gátt, þó sjáist ei brádt, sem setur þad lægra.

## Hexametrum.

Old ódum spillist, uggleysinu bárlega fyllist,
Glæpa vegur gyllist, girnd holdsins margur adhyllist.

## Um misjafnt hamingju lán.

Lagid: Opt vindar eik hjá.

Barna lund blind fædd, vid brjóstin módur kúra, æsku-stund ómædd, fyrir engu kann ad stúra, en þad mund algædd, er manns-ins náttúra, skammt mun til skúra.

2. Einn ef kémst hér hátt, og hyggur sér til kjæti, á þá skémst addrátt, eitthvad þad menn græti, hjartad kremst, hvarf brádt, helzt er þókti mæti, allt eptirlæti.

3. Gliánn reis grá hardt, gnap þá stormur hrylti, öldu geys grimmt margt, glæstum reida spillti, þessi eys, en snart, önnur rúmid fylti, og bátnum bilti.

4. Skér, ad ljær, skin sól, skírt ad morg-un kosti, um adra grær, eikt ból, yrju daggar rosti, sídan slær, heims hjól, hvestur gust-ar losti, med feikna frosti.

5. Því er allt í heimi', ef svo mætti greina, nærsta valt, þad þeim, þykir víst, er reyna, á hlidum hallt hálft tveim, hjólid luckur teina, fer braut ei beina.

## Veraldar flátt skapur.

Sama lag.

Svo sem gler, sýnist mér, sælan hál, ver-aldar, hvikul hér, hvad lítst þér? hvítt ad

ofan faldar, undir ber, ef þú sjer, íllsku brún-ir kaldar, og táli tjaldar.

2. Margann hátt, hún þrátt, hóf í yfir-læti, luckan kátt, lék dátt, litla stund með kjæti, stöd við gátt, fljóð slátt, felldi þann úr sæti, frá mestu mæti.

3. Alits fríd, fræg blíd, fyrst hún mørg-um reyniſt, heimskum lýd, hæg þýd, hitt þó undir meiniſt, slúngin stríd, slæg = smíd, sløttug rétt svo greiniſt, brádt burtu leyniſt.

4. Luckan hál, heims prjál, hold og blód-id káta, slædar = bál, frekt brjál, framm úr réttum máta, það er tál, svíkur sál, um síd-ir kann að láta, sárt suma gráta.

5. Við leigu = ból, láns = stól, líkist heims-ins sæla, ókyrrt hjól, ragl, ról, reykjar dupt og svæla, glislegt hól, gabb - tól, ginnir Mammons þræla: hverr má því hæla?

6. Daudleg mind, mannkind, moldar leir-inn veikur, beina = grind, blásin vind, bóla vatns og reykur, hladin synd, lauslynd, sem logi strá = þurr qveikur, á þrædi líf leikur.

7. Holdið bjart, ber skart, bædi gull og klædi, en þú vart, óþarft, ádur rotid sædi, verdur snart, veik art, vesælt madka fædi, sem øll endar gædi.

lýda, lengi þar um rædist. Hold er mold, hverju sem það klædist.

2. Hugsa' eg opt í hyggju brunni, af hverju menn sig stæra kunni, þó er það nærsta' í náttúrunni, að nakin sérhverr fædist. H. e. m. h. s. þ. k.

3. Fordild øll hún flýr úr huga, þá feigdin mann vill yfirbuga, lítið stackar døcku duga, þá daudinn inn að lædist. H. e. m. h. s. þ. k.

4. Hvað gyldir þó ríkur rambi, regist við og standi á þambi, engin er svo dygur í drambi, að daudinn nockurn hrædist. H. e. m. h. s þ. k.

5. Þó á þér skíni' útlendsk draktin, yfirlætis og vitsku praktin; trú þú mér að minkar maktin, af mødkunum þá snædist. H. e. m. h. s. þ. k.

6. Aður enn (kannské) úti' er nóttin, af þeim tekur að draga þróttinn, kémur þá bædi qveisa' og sóttir, qvillinn sár ei grædist. H. e. m. h. s. þ. k.

7. Þó stundum gángi þeir flockum búnir, á stígvélum séu sporar snúnir, út við grafar backans brúnir, bein leið øllum þrædist. H. e. m. h. s. þ. k.

8. Silfur=pör og dýrir dúkar, danskur kjóll og treyur mjúkar, ad sálunni lítid seinna hjúkar, þá forgar=hitinn grædist. H. e. m. h. s. þ. k.

9. Þó hygginn sért og hæg=sundadur, hafdu rád mín, kristinn madur! hér er svo vaktur heimsins stadur, hinn sær gott er mædist. Hold er mold, hverju sem þad klædist.

## Um ágirnd og aura safn.

*Mig ángrar margt hvad manns athæfid, hvernig heimi' er háttad, hef' eg vel sjed.*

Öldin ódum spillist, ósid margur hyllist, af réttum vegi villist, von þó hjartad qvillist, heimur af hreckjum fyllist, hægt mun ecki ad dylja þad. Mig ángrar margt hvad. Synd og gódzid gyllist, svo géti' menn eign=ast sjed. Hversu heimi' er háttad, þad hef' eg vel sjed.

2 Upphaf allra klækja, er ágirnd fast ad rækja, aura safnid sækja, sitt frá hver=jum krækja, løg med limsku slækja, lags=menn sína mest hún bad. M. á. m. h. Ofund og ofstækja, af því vara réd. H. h. e. h. Þ. h. e. v. s.

3. Hvar sem ad húsrúm tekur, heimsku og blindleik vekur, blessun í burtu rekur, búinn er skadinn frekur, trygd og hógværd hrekur, heimtist fals í þeirra stad. M. á. m. h. Illu sá mun sekur, sem slíku umgengst med. H. h. e. h. þ. h. e. v. s.

4. Hún lét hrecki drjúga, híngad í landid fljúga, volada kann ad kúga, krapt úr beinum sjúga; fagra Mammons múga, margur sína blessun qvad. M. á. m. h. Seims er søfnud hrúga, sálin løgd í ved. H. h. e. h. þ. h. e. v. s.

5. Aumt er yfir ad klaga, er þad hvers manns saga, setníng lands og laga, láta peníng naga; mustur málin draga, meinlaus fellur opt fyri þad. M. á. m. h. Víst um vora daga, veit eg ad þvílíkt hefir skéd. H. h. e. h. þ. h. e. v. s.

6. Fleirstar dygdir falla, finnst kjærleikur varla, sannleik bygg eg halla, hrørnar manndád snjalla; trú er farin til fjalla, fær nú ecki' í bygdum stad. M. á. m. h. Agirnd nærsta alla, á annad fellir knéd. H. h. e. h. þ. h. e. v. s.

7. Mammon-maktar snaudur, mjøg er hjálpar traudur, burt er brjálid og

audur, þá búkurinn liggur daudur, leitinn rótast raudur, ríkis=kroppnum utan ad. M. á. m. h. Fæst fyri fremd og haudur, fánýtt moldar beð. H. h. e. þ. h. e. v. s.

8. Viti virdar og qvendi, von er ad heimurinn endi, sjá til ad sálin lendi, um sídir í Drottins hendi; opt þad efnid kénndi, einn sá þessa vísu qvad. **Mig ángrar margt hvad.** Þaunk=um þángad renndi, því ber sturlad géd. **Hversu heimi' er háttad, þad hef' eg vel sjed.**

## Oflátúnga lýsing.

**Heims af keim, hygg eg nockud inna, hvad margur heldur mikid af sér, misjafnt þó ad reynist hér, þad er madur þó hann láti minna.**

Margt býr stundum mér í sinni, menn þegar ad stollta sje, og volsa mikid í ver=öldinni, enn vita hverki A né B, sídur þó í samvitskunni sjálfa skynjar þad þeim ber; **þó margur haldi mikid af sér,** flesta ad einum ber þá brunni, er brjáljd uppá finna. **Þad er madur þó hann láti minna.**

2. Margur blessgst madur á ládi, af miskun Guds og veraldar aud, hina adra brautin þjádi, sem hverra nádi daglegt braud, þridji hópur þá forsmádi, þenkti hverki á deyd né féd. M. h. m. a. s. Ad því seinna ecki gádi, ad æfin mundi linna. Þ. e. m. Þ. h. l. m.

3. Þegar þeir fara øls med ædur—ysirmenn stundum þetta skér—skrum ad tala og skémmdar-rædur, skémtan þeirra þvílík er, um eldsins þenkja ecki glædur, sem ógudlegum hefndir lér. M. h. m. a. s. Gætum ad því, gódir brædur! Gud mun' vitja sinna. Þ. e. m. Þ. h. l. m.

4. Kunni þér ad mæta madur, mjøg velbúinn sjer þú hann, heidurlega handtéradur, hvergi sástu þvílíkann, hann er allur gjardaeladur, glóandi med orma-skér. M. h. m. a. s. Einnig sjálfur alreimadur, upp med bøndum tvinna. Þ. e. m. Þ. h. l. m.

5. Ber á høndum breytta handska, buxur fernar klæddur á, med knappa', treyu og kjólinn franska, klædin trúi' eg hylji sá, sjest um hálsinn silkid danska, svardar Heimdals lagdur der. M. h. m. a. s. Med stígvél bædi' og spora spanska, spennir út kálfa stinna. Þ. e. m. Þ. h. l. m.

6. Rif-kragann med tembi-læti, reira þeir um sinn dygra háls, máské sumir menn þess gæti, hann mundi ecki betur enn fjáls, á þeim eru haldin mestu mæti, sem misjafnt qvísa þar og hér. M. h. m. a. s. Dremb-inu rambar í sínu sæti, ad sönnu kann ei hlynna. Þ. e. m. þ. h. l. m.

7. Hárid ofan á herdar bustar, hér med kampa' og skéggid sídt, fis af fötum dreg-ur og bustar, med dáwænt belti og hand-gull nýtt, þenna landsins þenkir Fursta, þjódin hver, sem nálæg er. M. h. m. a. s. Slíkann skyldi' eg reikna rusta, ef reyndi hann nockur hinna. Þ. e. m. þ. h. l. m.

8. Heldur enn eigi hnacka-kértur, hönd-um stingur mjadmir á, nockud líka nasa-spertur, naud má þykja slíkt ad sjá, sá mun þykja ad skyni skérdtur, skrumar um fróm-ann hjörfa-grér. M. h. m. a. s. Af ó-trúleika undirfergtur, eda brögdum hvinna. Þ. e. m. þ. h. l. m.

9. Í bádum vösum glymur gjaldid, gylt-ir hnífar og tóbaks dós, þeir ætla sér muni vera' í valdi, veröldin öll og hennar ljós; sitja í hvítu silki-tjaldi, sorg þeim engin nærri fer. M. h. m. a. s. Fyrir dyr-

hressu, þvi Herrann Jesús græddi þad allt. Hann keypti mig frá qvalanna pressu, og kostadi þar til sjálfum sér, svo hald' eg minna' af sjálfum mér. Set eg upp mína sigur=messu, er Satan kann ei hlynna. Þad fer betur þó þeir láti minna.

18. Vertú mér til hægri handar hjartkjær=asti Jesú minn! ad burtdrífist illir andar, ofan í nedsta bústad sinn; svik, er djøfull samanblandar, setjist hans í qverka kér.—M. h. m. a. s. Engin mér þá eymdin grand=ar, ef eg þig má finna. Þ. f. b. þ. þ. l. m.

19. Sú lítillætis rótin rétta, af røkum gódum komin er, hjá Matthæó vér meg=um frétta, málsgrein þá, sem stendur hér, í ellefta er tjád þetta, einka rád þau nýt=um vér. M. h. m. a. s. Angri þúngu af vill létta, ef þeim gjørum sinna. Þ. f. b. þ. þ. l. m.

20. Í Guds nafni allirsaman, ad oss gætum fyrr og síd, hér er ecki á gángi gaman, góda missum ecki tíd, en høfum Jesúm fyri framan, freistíng þá ad hønd=um ber. M. h. m. a. s. Sig venji hverr á trygdir tamann, tállaust honum sinna. Þ. f. b. þ. þ. l. m.

21. Eg frátek alla fróma sveina, fólkid gott og heidurs menn, sem óttast Gud og elska' hans hreina, ordid, trú og sannleikenn, veri' hann þeirra verndin eina, og voldugt skjól í rauna hver. **Þeir mundu halda minna af sér.** Til hinna annara manna' eg meina, sem misjafnlega sig kynna. **Þad fer betur þó þeir láti minna.**

22. Bid eg gjæda þýdar þjódir, þyckjast ecki qvædid vid, heldur vildi heidurs bródir, hlýda fródum ráda sid, vitsku horskir, gladir, gódir, gleymi slæmir; tíminn þver! **Margur heldur mikid af sér.** Førum dýrar fridar slódir, en fordumst gjørdir hinna, **sem lærdu offeint ad láta nockud minna.**

## Ur Látinu útlagt *).

Minnstú ad gá ef hefd þín er há, ad haldir hid rétta,

*) *Vir videas, quid tu jubeas, dum magnus haberis.*

Vel þó um sjá, hvern viltú forsmá, eda
vyrdíngu fletta.
Enckan mjøg dá, kann lædast þér frá, þad
lát þig ei pretta,
Þykistú stá, svo þenk þar uppá ad þú meg-
ir detta.

## Enn úr Látínu útlagt.

Stund er sú seinasta, íll og óhreinasta,
oss ber ad vaka.
Reiknast, sem ókominn, réttláti dómarinn,
reikníng ad taka.
Ókominn! ókominn! ad afmá rángindin,
en jøfnud krýna.
Umbuna réttindin, reka burt íll = syndin,
ríkid sitt kéna.

---

*Prospicias, quem despicias, quem læ-
dere quæris.*
*Dat varias fortuna vias, nil ergo
mireris,*
*Sed metuas, ne forte ruus, dum stare
videris.*

## Um mannsins fallvalta líf.

Lagid: Uppá fjallid Jesús vendi.

Mannsins stuttur er, eg inni, andardráttur í nøsunum, snøgglega trú' eg lífid linni, sem laufid fellur af grøsunum, litid sálu líknar þinni, þó liggi féd í køsunum.

2. Eins og heyid fellt í flecki, følnar upp í múgunum, dofnar hold þá dettur af becki, í døprum andar kúgunum, dandinn géfur gáum ad ecki, þó gullid liggi í hrúgunum.

3. Á augabragdi einu skédur, umbreyting á vistunum, fyrir mjúka sæng fæst moldar bedur, minnstum gjør af listunum, lítid sálu grætta gledur, þó gullid liggi í kist=unum.

4. Vér skulum ecki verøld freista, ad voga allt, sem djarflegast, illra girnda alinn neista, útslockum sem snarlegast, á sannann Jesúm Son Guds treysta, sálunni er þarf=legast.

## Flærdar Senna.

Lagid: Ad ydka gott med æru.

Annars erindi rekur, úlfur og laungum sannast þad, lætst margur loforðs frekur,

lítt verdur úr þá, herdt er ad; medan slær ord vid eyra, er þér kjær vinur ad heyra, fértú fjær, svo er þad ecki meira.

2. Slíkt er hyggindi haldin, høfdíngs-skapur og mentin prúd, verøldin falsi fald-in, fódrar sinn kjól med skolla-húd; lærd er á limsku bèglur, leynt sér hjá, fann þær reglur, sem køttur sá, er kreppir ad hvass-ar neglur.

3. Opt er fagurt í eyrá, alþýdu lof af hræsni veitt, hinum, er á þad heyra, heim-ur þykir, sem kálfskinn eitt; í augun greid hlæa' og hlacka, hrósa' um leid, bidja' og þacka, búin er sneid, þá snúa þeir vid þér hnacka.

4. Heimskur er sá, sem heldur, hvers manns loford, sem fullgjørt sé, einfaldur opt þess géldur, alvøru meinar þad hinum er spé; trygda gjøld táls med korni, tempr-ast køld, nema vid sporni, vinur í qvøld, en vélar þig strax ad morgni.

5. Heimurinn hreckjafulli, handverk þetta mest brúkar nú, ad fódra eyr med gulli, útgengur hónum myntin sú; ordagl-ens ei þarf kaupa, allir léns med þad hlaupa, fossa-flens, kalsa, ljúga' og raupa.

6. Sá hefir best úr býtum, sem búid gétur ad sínu einn, frjáls af limskunnar hýtum, lifir og deyr svo hjartahreinn; tryggdum víst vél nú farga, veröld snýst; hverr vill bjarga? rád er sízt, ad reida sig uppá marga.

## Aldarháttur,

med fluttum Skríngum.

Ádur á tídum var tídska hjá lýdum (svo tryggördir kénndu), frá barndómi blídum, med frembar=hag fríðum, ad frægdum sér vendu; af streng=boga strídum, í hárs eldar hrídum 1), þeir herskeytin sendu, eda' á mar vídum, skérvallar skídum 2), til skémtunar rendu.

1) Hár, Odinn; hans eldur, sverd; þess eldar hrídir, bardagar. 2) Skérvollur, sjór; þess vallar skíd, skip.

2. Manndómur mundi, þar sveinar á sundi, sóktust af afli; einn sat í lundi hjá litfögru sprundi og lék sér ad tafli, hinn þar vid undi, sem hátt knöttur hrundi' eda handsaxa kasli 1); lof þeim ad dundi, sem frægd bar af fyrdi, med fann=deigulskafli 2).

1) Kafli, þar um var haldið hendinni. 2) Deig=ull eða dígull, er eld=panna; dígulsins eða deiglunnar sannskasl, er gullið.

3. Versákum 1) vøndum, með bifrokn=um brøndum 2), þeir bægðu frá láði; byr saung í bøndum, á brimvallár grøndum 3), þá beittu við gráði; geir rumdi í røndum, þar rík þjóð í løndum; ríta=jel 4) háði; gnótt var í høndum, géck lið af strøndum, með gló=kraka sáði.

1) Ver, veiðislaða: item: sjór; hans Fákar, skip. 2) Bif, vatn eða sjór; bifroknir brandar, árar. 3) Brimvallar grandar, bylgjur, sjór. 4) Rítar, skildir; ríta=jel, bardagar.

4. Y 1) bendum skutu, en álmdrósir 2) þutu, í andfari þunnu; burstengur brutu, en hátt skildir hrutu, þar herfákar runnu; benfossar flutu, en lágt hinir lutu, sem lítt verjast kunnu; sæmdar ráð hlutu, og síns afla nutu, þeir sigurinn unnu.

1) Y, boga. Álmur, bogi, hans drósir, ørvar.

5. Armi hverttveggjum á liðs=handar=leggjum þeir ljós mundar 1) hreifa; g'aðt skein á seggjum, með geimfoldar negg=

jum 2), svo grams = runnar 3) leyfa; díg= ulfarms dreggjum á val = borgar veggjum 4) vildu menn dreifa, í ángantýrs hregg= jum 5) undateins eggjum ótraudir veifa.

1) Mund, hönd; hennar ljós, fingur = gull. 2) Negg, hjarta; foldar = negg, steinn, Geim=negg foldar, er gimsteinn. 3) Grams= runni eda runi, hirdmadur. 4) Valborg, er hönd; hennar veggir, fingurnir, á hver= jar menn vildu dreifa Dígulfarms dregg= jum eda gullinu. 5) Angantýr, Odins heiti, vegna mjúklátrar þjónustu er hann veitti konu sinni Frigg; hans hregg, bardagar.

6. Ofæmdir bidu, þeir ofriki lidu og ecki sín hefndu; djarfir fram ridu í dyn sköglar hvidu 1) og drengskapinn efndu; tröll = marir 2) skridu ad unda - súgs 3) idu, þá odda = þíng stefndu; lítt fyri qvídu né sár þó þeim svidu til forgmála nefndu.

1) Dyn, dynur; Skaugul, valkyrja: hennar hvida, bardagi. 2) Tröll = marir, vargar; Mar, hestur. 3) Unda=súgur, blód. Skáld= id segir: ad vargarnir hafi sókt í blód = sofsa iduna, hvar bardaginn var áttur.

7. Spakvitrir spáðu, þeir gjörla margs gáðu og gløggskygnir váru, kjænt niðurkljáðu, þá kíf-þrætur háðu, úr kappmálum skáru; trygga sig tjáðu, en tálið forsmáðu, því trútt hjarta báru; meir gáfu' einn háðu og því víða náðu, þjóðræmi kláru.

8. Island má sanna, það átti vøl manna þá allt stóð í blóma; glæ sóktu hranna 1) til ríkra Kóngs ranna, vel reyndir að sóma; ýmuleiks anna 2) þeir ým 3) þorðu kánna, sem yrki 4) forn róma, ilþorns 5) og tanna, óx æði varganna, þar einn beitti skjóma.

1) Glær hrannar, sjór. 2) Yma, bardagi. 3) Ym, hljóð, gný, það er: þeir gømlu menn þorðu að kanna eður heyra vopnabrak, sem skeði í bardagans annriki. — 4) Yrki, eru qvæði. 5) Il-þorn, klær. Skáldið segir: þegar einn beitti skjóma (sverði) i bardaganum, óx æði klónna og tanna varganna, sem væntu sér bráðar.

9. Þeir báru hjálma og mjøg drifna málma marðallar gráti 1); brjóst fleinar 2) fálma, í sár-elda 3) sálma fram sóktu með gáti; spor mistar skálma 4) og spjør-

flugnr tálma, spreytínga státi; valjardir jálma 5), vid uppdregna álma, -svo allt var á bjáti.

1) Mardaull, kallast Freya; hennar grátur, gull. 2) Fleinar, allskonar skotvapn. 3) Sár-eldar, sverd; þess sálmur, bardaginn. 5) Mist, Valkyrja; hennar skálma spor, sárin, hvered ásamt Spjørflugunum, skotvopnum, vóru næm og vidqvæm spreytínga státi. 5) Val-jardir, høndurnar, á hverjum valurinn sat; jálma, þ. e. hristust med nockurskonar þyti.

10. Land løgum vørdu, þeir viktug rád gjørdu, svo vandrædin bættu; fyrr frelsi kjørdu, enn fofnis skrid-jørdu 1), þó flest kostar ættu; gédi þá hørdu var hótad einørdu, med hugprýdi mættu; manndád ei spør' du vid nýta seims njørdu, ef nærri lá hættu.

1) Fofnis skrid-jørd, gull.

11. Nú er øld snúin, á adra leid búin, þar yfir má klaga; frækleikur lúinn af landi burtflúinn, því lída menn baga; røksemdin rúin, sjest rír vina trúin og rekin úr haga; ágirnd framknúin, en grær lastagrúinn, flest gengur aflaga.

12. Ungdómsins ædi, þó ádur fyrr stædi til afreka hárra, losti, sjálfræði, leti, svefn bædi, það lítst þeim nú skárra; vits kulnar sædi, á vinds hirjar svædi 1), því veldur geð þrárra; að lesa góð fræði og læra sidgædi, er lunderni fárra.

1) Það er: í huganum.

13. Dug lægir beima 1), sem faldbúin feima 2), við fletin sér halda; beiti=lúng geima 3), er bannað að sveyma um blá-röstu 4) kalda; menn má nú dreyma, til sörva blik=seima 5), en sjálfir þó valda; hugprúðir heima, þeir harðfengi gleyma við hlackar rof=tjalda 6).

1) Beimur, karlmaður. 2) Feima, óframfærin qvennmaður. 3) Lúngur, er hestur; Geimur, sjór; Beiti=lúngur geima, skip, hverju beitt verður til og frá um sjóinn. 4) Blárøst, sjór. 5) Sørvar, þýðir hér: sjølda; Blik=seimur, glansandi auðæfi. 6) Hlöck, Valkyrja; hennar Tjalda=rof, strið, í hverju brynjur slitna.

14. Nockrir ef þræða um fáks ráfir slæða til frembar hags=bóta: frest=skuldir fæða því fé lítið græða má forðildin ljóta; raup=yrðin ræða, þó rír sé ástæða, því

reynslan vill þrjóta; ný breytni klæda, en kléna sidgjæda, þeir kynníngu hljóta.

15. Svo þverra lystir, því mjøg eru mistir þeir mentirnar auki; menn sitja twistir og bragdhnígnir bistir í búsorgar hnauki; allt eins og qvistir af hretvidri hristir á hrá = vidar lauki; margur því gistir, þær vesældar vistir þó vhýlmódur þrauki.

16. Kostir sjást farnir, þar fólknárúngarnir 1) þeim framandi hlýda; dúlsbrædur svarnir og glismála gjarnir, svo gjørast nú vída; Fenju drag = qvarnir 2), í fémútu sparnir, um farveginn skrída; innlendir barnir, þó engar fá varnir, þeir ofríki lída.

1) Fólknárúngar, þad eru høfdingjar, sem ega ad næra og fóstra fólkid og hina undirgéfnu; þeir — segir Skáldid — ordnir féu

2) Fenju drag = qvarnir; þad er ágjarnir, draganbi saman hvad féfnætt er: eins og qvernin Grotti, er þær systur Fenja og Menja drógu.

17. Atburdir þrjóta til hraustlyndis hóta í hugmódi sveina; skút = yrdum skjóta og rógsmálum róta, þad røksemdir meina; hrakspárnar hrjóta, þeir hverr ødrum blóta,

en hinn grípur steina; fjørlausnar fóta, þá fýsir ad njóta, ef framar skal reyna.

18. Rauparinn telur þær vígs allar vélur, sem veit hann sér granda; á ordum hrafn elur, sem grád-soltinn gélur vid gný þrumu randa; hrædslan þá quelur, ef kocks hnífa-grélur þeim koma til handa; í nærstu hljóp felur, sem nót flýi selur og nidri héldt anda.

19. Mannkosta lægdir, en lastanna nægdir í landinu spretta; út gengu frægdir þar inn komu slægdir og athafnir pretta; náskyldir, mægdir, med róg eru rægdir, svo reynst hefir þetta; litlar fást hægdir, en þad væri þægdir, ef því vildi létta.

20. Horfist til baga, þar yfirmenn aga, þeim óhlýdnu spara; múturnar draga sér lidsinni laga, þó leynt egi fara; ágirndin raga, kann allteins ad klaga og einnig forsvara; til og frá slaga, tálbrøgdum haga, því taktú þér vara.

21. Hverr vildi greina, þad allt efni meina, sem áfalla nádi? hljódt margir qveina, en hjá sér þó leyna, sem hugbodid tjádi. Innbúa steina 1), skal braut snúa beina ad byr-hvedru-grádi, sundferjan seina, þó atti grér eina, ad ódstødvar ládi.

1) Innbúa steina, dverganna; Sandferjan, skáldskapurinn, skal snúa beina braut í byr=grádi Hvedru, tröllkonu hugsanum, ad ládi ódsted=var; þvi ódurinn skal nema stadar ad Þagnar ládi.

22. Margt mætti henda, sá vill hug' til venda og vidkannast nædi, efni bágenda, sem oss gjörir benda og aflar nú mædi. Aldarhátt kénnda í sýn margra fenda, má segja vandrædi. Fleirst tekur enda, eg læt þar vid lenda og lykta svo qvædi.

## V í s a.

Mundu þig, madur! í **Mundo**,
  **Mundus** svik býr undir,
Mundu ad sjá vid **Mundo**,
  Því **Mundus** prettar stundum.
Mundu þig fyrir **Mundo**,
  **Mundus** er hrekkja=lundur.
Mundu ad komast frá **Mundo**,
  **Mundus** á Drottins fundi.

---

# Þridji Flockur

innihelдur

## Luku-óskir, Utfarar-minníngar

og annad smávegis.

---

### Luku-óst og Heilrædi

til

### Hra. Sigurdar Jónssonar,

nýordins Løgmanns sunnan og austan á Islandi.

Lagid: Uppá fjallid Jesús vendi.

Almáttugur Gud þín gæti og gefi þér heilags Anda náð, í Dómara svo þú sitjir sæti, med sæmd og æru, prís og dáð, um fyrir øllum ávalt bæti, úrlausn þín og heilnæm ráð.

2. Þeir undanførnu allir benda, eptir þeim, sem lifa nú; menn kann alla mannlegt henda, med því vís er reglan sú; vid daudans púnkt mun loksins lenda, líka hinn, sem eg og þú.

3. O minn bródir! ad því gættu, ótta Drottins haldt þér vid, djarflega' aldrei' á

heiminn hættu, heldur hann sínum gamla sið, víst það allir vita mættu, hann velltist skjótt á ýmsa hlið.

4. Hafðu Guð í huga' og minni, hafðu Guð fyrir augum þér, hugsaðu' um Guð í hverju sinni, heyrir Guð og til þín sjer; vyrdtú Guð í valdstjórn þinni, vittú' að hann þinn Herra er.

5. Hærstum Føður og Syninum sæla, samt heiløgum Anda með, lof þeim allir lýðir mæla, ljúft af øllum túngum téð, tign hans allir helgir hæla, hann fáum vér síðar sjeð.

## Nýárs-ósk

til

# Orms Vigfússonar

og konu hans

# Guðríðar Arnadóttur.

Lagið: Í þinni ógnar bræði.

Sælir í sønnum Guði! sælir í Guðs føgnuði! sælir í sannri trú! sælir og sviptir vanda! sælir í heiløgum Anda! sælir í sjálfum Jesú!

2. Sæll, vinur! sæmdar frómi, sæll í þeim aldurdómi, sem Guð gaf sælann þér!

sæll bædi úti' og inni, á lífi og sálu þinni, ætíd í heimi hér!

3. Sæl sé þín kjæra qvinna, komin til ára sinna, húsprýdi heidurleg! Þid blessun bædi hljótid, bestu farsældar njótid, ætíd á allann veg!

4. Sjáid þá sælu hreina, sem eg kann best ad greina, ydur afhendist vel; Jesús þad barnid blída, burttekur sorg og qvída, hann er Immanúel.

5. Þennann elskid og unnid, allra best, sem kunnid, bædi þid, heidurs hjón! honum af hjarta fagnid, hagqvæma lofgjørd magnid, sem Anna' og Símeon.

6. Jeg bid: ad Jesú fridur, jafnan stadfestist ydur, eptirkomandi ár, med allskyns æru, sóma, ástar Guds Fødurs ljóma, svo tendrist trúin klár.

7. Ydur, lífid, sál og sinni, sumt lán, heilsa og inni, forsjá Guds falid sé; einnig þín ekta-qvinna, med ástvina flocki hinna, og allt yckar afqvæme.

8. Sæl lífid, sæl hér þrejid, sæl hédan loksins deyid, sæl verdi sálin þá! sæl í þeim sælu blóma, sæl í himneskum ljóma, sæl ætíd, Amen! já!

Hýr sé hladinn æru,
  Horskur lundur lífs um stundir,
Sem haninn fiðri sínu,
  Frægd, nægd, audar hægdum.
Kristur med kjærleik' bestum,
  Klár á nýu ári,
Sendi' ydur sannleiks anda,
  Sá skartar best í hjarta.

## Erfi-Ljód

sem Skáldid qvad eptir únga Dóttur sína

### STEINUNNI.

Lagid: Konúng David, sem kénndi.

Sælar þær sálir eru, sem hér nú skiljast vid, frá holdsins hrygdar veru. og heimsins gøldum sid, hvílast í himnafrid, þar, sem med sætum hljódum, sýngur lof Drottni gódum, loffamlegt Engla lid.

2. Tign, æru, sæmd og sóma. sálir Guds barna fá, sem ljósar stjørnur ljóma, lambsins stóli hjá, ávalt Guds auglit sjá, med hvítum skrúda skrýddar, skarti réttlætis prýddar, sorg allri svipta frá.

3. Englanna hirdin hreina, heidrar Gud nótt sem dag, sálirnar sýngja og

greina, Sanctus med fegursta lag, í lyst=ugum lífsins hag, holdid sig medan hvílir, hondin Drottins því skýlir, sjer engann sorgar plag.

4. I þenna flockinn fróma, flutt varstú, barn=kind mín, himneskum hafin sóma, hvílist nú sálin þín, ljómar þar skjært og skín, í fadmi Jesú fridum, fagnandi øllum tídum, dýrdin sú aldrei dvín.

5. Nú er þér aptur goldid, ángrid, sem barstú mest, þegar þitt hrjádist holdid, hátt þú stundir og grétst, géfin er gledin best, hafin úr hrygd og módi, hreinsud med Jesú blódi, synd engin á þér sjest.

6. Unun var augum mínum, ávalt ad líta á þig, med úngdóms ástum þínum, æ= tíd þú gladdir mig, rétt yndis elskulig, audsveip, af hjarta hlýdug, í hardri sótt vel lídug, sem jafnan sýndi sig.

7. Næm, skynsøm, ljúf í lyndi, lífs med=an varstú hér, eptirlæti og yndi, ætíd hafdi' eg af þér, í minni muntú mér; því mun eg þig med tárum, þreja af huga sárum, heim til þess héđan fer.

8. Min gledi er sú eina, andlát þitt hugsa' eg á, þú hafdir málid hreina, hér med vit alls ad gá, skammt til þess líf

leid frá, breiddir út hendur báðar, baudst þig til Jesú nádar, qvaðst vilja koma þá.

9. Litla stund stód í hæsi, sturladi fögnudinn, hálft fjórda' ár, var æsi, eigi þó fullkominn; skjótt sá eg skilnad þinn; geymir sál þína sætur, signadur Drottinn mætur, fyrir Jesúm Soninn sinn.

10. Hvílist nú holdid únga, af harmi og sorgum mædt, svipt øllum sóttar þúnga, svo er þér nú óhætt, Dóttir mín! bøl er bætt, frjáls vid synd, fár og dauda, fyrir Jesú blódid rauda, sefur-í Drottni sætt.

Lagid: Dagur í austri øllum.

Nú ertú leidd, mín ljúfa! lysti-gard Drottins í, þar áttú hvíld ad hafa, hørmunga' og rauna frí; vid Gud þú mátt nú mæla, miklu fegri enn sól, unan og eilíf sæla, er þín hjá lambsins stól.

2. Jeg ann þér svoddan sælu, ad sjá þitt gledi-vín, hédan úr eymda pælu, eg kém þar senn til þín; ó hvad sætir samfundir, sedja þá ockar géd, um eilífar æfistundir, ad lifa Drottni med!

3. Dóttir, í dýrdar hendi, Drottins mín! sofdu vært, hann, sem þér huggun

ferdi, hann elskar þig svo kjært, þú lifdir gódum Gudi, í Gudi sofnadir þú; í eilífs-um andar fridi, ætíd sæl lifdu nú!

## Utfarar Minning

sáluga Lögmannsins

## Arna Oddssonar,

sem deydi ad Leirá í Borgarfirdi, þann. 10da Martz 1665.

Lagid: Dagur í austri øllum.

O! hvad aumleg úrrædi, er þetta veika líf! fallvalt og fánýtt bædi, fullt med sorg, eymd og kíf, í vyli, voli' og qvída, veiklast hér mannlegt hold, æfin svo loks má lída, líkaminn verdur ad mold.

2. Daudinn er dapurlegur, sem David og Jósúa tér, allur eins veraldar vegur, víst því ad æfin þver, hann gánga Herrar, sveinar, høfdíngjar, almúgenn, qvinnur, sem meyar klénar, Kóngar og undirmenn.

3. Þó verdi þann vegínn þraunga, vikja Guds børnin trú, þau hrædast hættu enga, huggun þeirra er sú; heljar brodd braut og eydi, beiskleik øllum daudans, Jesús og lýd sinn leiddi, til lífsins úr valdi hans.

4. Hverki þarf hel né dauða, hræðast rétt=trúuð önd, kénnir ei qvala né nauða, komin í Drottins hönd; sæng er góð greidt til búin, gröfin með jörðu skýld, líkaminn þreyttur og lúinn, leggst þar í mjúka hvíld.

5. Þess vegna í Guði glaður, géck til síns hvíldar ranns, Arni Oddsson Lögmaður, aústann og sunnann lands; hold hans sætlega sefur, í sællrar upprisu von, frelsuð sál fögnuð hefir, í frið hjá lambsins trón.

6. Sælann má hann því sanna, í sælunnar reynslu þar, á landi lifandi manna, í lysting Guðs ásýndar. Í Abrahams skauti skjæru, skínandi fegurðar glans, í himneskum heiðri og æru, í hönd mildri Skaparans.

7. Hann hefur rennt og runnið, rétt vel með allri dáð, himnaríki áunnið, efllaust fyrir Jesú náð, yfir því fagna eigum, af ást og trú til sanns, samt þó hér sakna megum, sællrar umgengni hans.

7. Heims af erfiði mæddur, alburdóms þúnga með, heilags Anda gjöf gjæddur, Guðs ríki stunda réð; ár þrjú og sjötíu innum, æfin hans var því nær (mælti líkt mörgum sinnum, við Mósen Drottinn kjær).

9 Ljúfur í Løgmanns dæmi, lifdi hér bygda klár, med heidri og hefda næmi, heil twø og þrjátíu' ár; sjalfur sig þar frá sagdi, í sínum aldurdóm, ærlega' svo af þad lagdi, ad allra lands = manna róm.

10. Hafi nockurr mátt heita, høfdíngi um þetta land, ef vildum ad því leita, eptir Herra **Gudbrand**, ad hógværd og hjarta tryggdum, honum ei fremri sjest, hugprýdi, dád og dygdum, Drottins ótta þó mest.

11. Þegar frá æsku árum, ord Drottins stunda vann, med sæmd og sóma klárum, sýndi ávøxt gódann, bóklegar lystir lærdi (løfsverd sú mentin er), med ydni þær allvel nærdi, utanlands bædi' og hér.

12. Med gégnd og gódri stilli, géck þad frámdar upphaf, hálærdra manna hylli, honum því Drottinn gaf, allt fram til elli = tídar, álit bar høfdínglegt, hér um land og víst vídar, vard kunn hans æra' og spekt.

13. Sannleikans gjarnan gádi, med gudrækinis hreinum sid, stødugur standa nádi, stadfast réttdæmi vid, hól, mútur, hræsni, smjadur, hverki þádi né gaf, Herra høfdíngs landadur, helzt bar því mørgum af.

14. Hann var heimilis mönnum, hógvær og stilltur mest, góðgjarn næsta nágrönnum, nauðstöddum reyndist best, ættrækinn, ölmusu-ámur, aumum, sem þurftu við, géstrisinn, fremda framur, fátækum sýndi lið.

15. Höfdíngleg úti' og inni, athöfn og stjórn hans var, með lyst og ljúfu sinni; lángt þó af öllum bar, géðhrein Guðhræðslan sanna, greina þar satt um má, hvað álit mátti manna, merkja, reyna og sjá.

16. Frjádag hvern fasta náði. Föstunnar alla tíð, líkamann þar með þjáði. Það var hans vénja fríð, með bæn og grátnu gédi, Guðs Sonar pínu' og deyð, um þenkja' og iðka réði, allt um þess dagsins skeið.

17. Fimta frjádag eg nefni, Föstunnar svo til bar, samt hans iðkunar efni, og áður fyrri var, í kirkju' að vanda vænum, veik um dags-verðar stund, með blessun, lofgjörð og bænum, af blíðri ástar lund.

18. Ljúfur að liðnum degi, til laugar gánga réð, að gjörðri bæn, sem eg segi. sælli umþenking með, hvar hann svo stundu síðar, sofnaður í Guði fannst, hérvistar termín tíðar, talið ei lengur vannst.

